Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Ert þú áskrifandi að vikublaði verkafólks?

Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

40. tölublað | Þriðjudagurinn 24. október 1978 | 7. árgangur | verð kr. 100.-

## Landsráðstefna herstöðvaandstæðinga

Landsráðstefna SHA var haldin í Sigtúni sl. helgi. Var ráðstefnan fremur fámenn, enda hefur áhugaleysis gætt meðal herstöðvaandstæðinga undanfarið.

### Lagabreytingar

Nokkrar lagabreytingar voru samþykktar og fela þær m.a. í sér að miðnefnd kjósi úr sínum hópi 3 manna framkvæmdanefnd, en sjálf aðalnefndin hittist sjaldnar. Einnig fólu lagabreytingar í sér nánari ákvæði um samskipti miðnefndar og svæðahópa. Felldar voru tillögur sem snerust um breytingar á markmiðum SHA og sömuleiðis voru felldar tillögur um að taka stefnuskrána til umræðu og endurskoðunar. Féllu þessar tillögur báðar á all klaufalegan hátt, önnur með dagskrártillögu sem margir áttuðu sig greinilega ekki á, og hin þannig að fyrst felldu stuðningsmenn tillögunnar að vísa henni bara til miðnefndar og svo felldu andstæðingar hennar að samþykkja hana.

### Starfsáætlun

Samþykkt var all viðamikil starfsáætlun. Er þar gert ráð fyrir stóraðgerðum 30. mars, sýningum, fræðslufundum og fundum í skólum og á vinnustöðum. Var sérstaklega lögð áhersla á að beina starfinu meir að verkalýðnum og benda á andstæða hagsmuni verkafólks annars vegar og hersins og NATO hins vegar.

### Einangrun herstöðvarinnar

Gils Guðmundsson kynnti hugmyndir um friðlýsingu N-Atlantshafsins og einangrun herstöðvarinnar. Fékk hugmyndin um einangrunina litlar undirtektir. Bentu menn m.a. á að ef staða herstöðvaandstæðinga væri það sterk að einangrun herstöðvarinnar næðist fram, með tilheyrandi stöðvun viðskipta við íslensk fyrirtæki, þá væri að öllum líkindum eins hægt að reka herinn. Einnig töldu menn það undanslátt ef herstöðvaandstæðingar ætluðu að sætta sig við einangrun hersins í staðinn fyrir brottför hans og væri því ekkert unnið með því að halda þessari hugmynd á lofti.




Frá Straumsvíkurgöngu herstöðvaandstæðinga 1977

### Friðlýsing N-Atlantshafsins

Hugmyndin um friðlýsingu N-Atlantshafsins fékk einnig heldur dræmar undirtektir. Töldu andstæðingar hennar að hún stuðlaði engan veginn að málstað SHA og einnig var bent á að meðan Ísland væri í NATO, þýddi friðlýsingin aðeins friðlýsingu NATO-flotans og styrkti stöðu NATO. Tillaga þess efnis að friðlýsingin feli í sér viss[illegible] jákvæð áróðursatriði, var þó samþykkt með atkvæðum Alþýðubandalagsmanna og EIKara. Kom afstaða EIKaranna nokkuð á óvart, því Verkalýðsblaðið hafði talið friðlýsinguna marklausa.

### EIK(m-l) samir við sig

EIKarar héldu uppteknum hætti að setja fram gagnrýni, án þess þó að sýna að þeir ætluðu að taka þátt í úrbótum í starfinu. Benti Ásmundur Ásmundsson á að Ari Trausti hefði á síðustu landsráðstefnu lagt fram gagnrýni í 11 liðum og saknaði hann þess að hafa ekki séð Ara í starfi liðins árs við að koma úrbótum fram. Einum félaga EIK(m-l), sem jafnframt hefur verið starfandi í hverfahópi SHA í Kópavogi, var gefinn kostur á að taka sæti í miðnefnd. Féllst hann fyrst á það, en dró sig svo til baka eftir að uppstillingarlistinn hafði verið lagður fram. Bar hann því við, að við val miðnefndar hefðu farið fram pólitísk hrossakaup, en menn ekki verið valdir eftir virkni. Engar breytingatillögu kom hann þó með. Ekki kom fram í máli piltsins hvort ~~han~~ teldi sig vera að styrkja stöðu virkra herstöðvaandstæðinga með því að draga sig til baka, en sú varð þó raunin á því að starfsmaður SHA var kosinn í hans stað. Annars urðu sumir EIKarar að athlægi með

Framhald á síðu 2

## 36. þing INSÍ:

# Vegið að stéttasamvinnunni

36. þing INSÍ var haldið dagana 20-22 október síðastliðinn. Voru þar mættir um 100 fulltrúar víðsvegar af á landinu ásamt varamönnum um 20 talsins. Þingið var sett kl. 2 á föstudaginn af formanni sambandsins. Þá tóku til máls gestir þingsins. Ragnar Arnalds menntamálaráðherra, Elías Snæland Jónsson formaður Æskulýðssambands Íslands og Thomas Borg Mogeansen fulltrúi LLO í Danmörku sem eru landssamtök iðnnema þar. Í ræðu sinni kom hann m.a. inn á það að atvinnuleysi meðal fólks yngra en 25 ára er 85þúsund. Um baráttuna fyrir því að verkskólanemar fái kaup í skóla sagði hann m.a. að til skamms tíma hafi þeir fengið kaup, en það hafi verið fellt niður. Á sama tíma keypti danska stjórnin 52 orustuflugvélar af gerðinni F 16. Andvirði tveggja þeirra hefðu nægt til að borga allan kostnað við kaup verkskólanema.

Að loknum þessum dagskrárliðum voru lesnar skýrslur, formanns, gjaldkera, ritnefndar og fræðslusjóðs. Lauk þingfundi þennan dag um kl. 7.

Á laugardaginn byrjaði fundur kl. 9. með framsöguræðum um ályktanir þær sem lágu fyrir þinginu. Þær voru um félagsmál, kjaramál iðnfræðslu lagabreytingar og þjóðmál. Eftir hádegi var skipt niður í nefndir til að ræða ályktanirnar. Stóð sú umræða allan laugardaginn og fram á hádegi á sunnudaginn. Eftir hádegi á sunnudag var tekið til við að afgreiða ályktanirnar og þær breytingar sem komu fram í nefndunum. Komu fram ýmsar breytingar sem miðuðu að því að INSÍ tæki upp aukna baráttu fyrir samnings og verkfallsrétti. ASÍ-forystan var fordæmd fyrir stéttasamvinnustefnu þá er hún rekur gagnvart atvinnurekendum og ríkisvaldi þess. Voru flestir sammála um að

Framhald á síðu 2




Frá þinginu

## 1. des. kosningar stúdenta:

# Vinstrimenn sigruðu

Síðastliðinn sunnudag kusu stúdentar um dagskrá hátíðahalda sinna 1. desember. Atkvæði féllu vinstrimönnum í vil þrátt fyrir aðeins um 25% kjörsókn. Þeir fengu 57% atkvæða eða 371 atkvæði en Vaka 43% eða 276 atkvæði.



Skyldi starfsemi Hannesar eiga sinn þátt í úrslitunum?

Efnið sem Verðandi býður upp á 1. des. n.k. er "Háskóli í auðvaldsþjóðfélagi", efni sem stendur stúdentum næst en Vaka ætlaði sér að halda upp á 1. des. með dagskrá með hinu merkilega heiti "1984: Hvað verður ekki bannað eða lögboðið?" og er mismunur í efnisvali ugglaust þáttur í niðurstöðum kosninganna að þessu sinni.

Meira verður fjallað um kosningarnar og 1. des. í næsta blaði.

**LEIÐARI**

# Þjóðaratkvæði um NATO og herinn

Nú er nýlokið landsþingi samtaka herstöðvaandstæðinga og því er vert að huga að helstu niðurstöðum þess. Á þinginu ríkti mikill baráttuhugur og sannfæring um mikilvægi eflingar samtakanna og aukinnar útbreiðslu hugmynda herstöðvaandstæðinga.

Þingið var ekki fjölmennt en þó voru fundarmenn nokkuð víða að af landinu og er ánægjulegt að vita til þess hvað áhugi virðist vera mikill úti á landi.

Þetta þing var að ýmsu leyti frábrugðið fyrri þingum. að því leyti að nú voru menn sammála um að tilgangslaust væri að treysta á þingræðislegar leiðir til að losna við hersetuna. Vinstri stjórnin hefur sannað herstöðvaandstæðingum að það er ekki til neins að treysta á gömlu stjórnmálaflokkana í þessu máli.

Í upphafi þingsins stóð Hjalti Kristgeirsson upp og hélt tölu um svik Alþýðubandalagsins í hermálinu. Ekki var annað að heyra af ræðu Hjalta en að hann teldi að herstöðvarsinnar innan Alþýðubandalagsins hefðu náð undirtökunum í flokknum. Þátttaka AB í ríkisstjórn sem lýsir yfir stuðningi við hersetuna var sú sönnun á óheilindum flokksins sem þurfti til að sannfæra þá efagjörnu um að til einskis væri að treysta á að þingflokkarnir leystu þetta mál.

Í lok þingsins var síðan samþykkt samhljóða harðorð mótmælayfirlýsing gegn stefnu ríkisstjórnarinnar í herstöðvamálinu. Þar kom meðal annars fram að þessi stefna væri í algerri mótsögn við stefnu verkalýðshreyfingarinnar, sem hefur marglýst því yfir að segja eigi upp herstöðvasamningnum og að Ísland eigi að ganga úr NATO. Stefna ríkisstjórnarinnar þjónar því öðrum markmiðum heldur en verkalýðshreyfingarinnar í þessu máli eins og svo mörgum öðrum.

Efling samtaka herstöðvaandstæðinga með þátttöku enn fleiri einstaklinga var talið eina svarið við þessum augljósu svikum við málstað alþýðufólks.

Til að undirstrika þetta enn frekar var ákveðið að samtök herstöðvaandstæðinga hefji baráttu fyrir því að greidd verði þjóðaratkvæði um málið. Þetta var talin ein þeirra leiða sem fær væri til að leysa málið. Í þjóðaratkvæðagreiðslu er það þjóðin sjálf sem tekur ákvörðun um aðgerðir en þarf ekki að sæta því að búa við svikin kosningaloforð í fjögur ár. Vegna þverrandi tiltrúar á þingræðisbröltið hefur nú komið upp krafan um þjóðaratkvæði, sem herstöðvaandstæðingar eru staðráðnir í að bera fram til sigurs.

Herstöðvaandstæðingar munu ekki una neinum erlendum herstöðvum að vera hér á landi og stöðugt fleiri verða sér meðvitaðir um mikilvægi þess að virkja fjöldann í virkum fjöldasamtökum fyrir þessum sjónarmiðum.

Markmið okkar er raunverulegt sjálfstæði og barátta gegn báðum risaveldunum, Bandaríkjunum og Sovétríkjunum.



# Landsráðstefna herstöðva andstæðinga

Framhald af forsíðu

smásmuguhætti og fáránlegum breytingartillögum.

### Ræða Hjalta Kristgeirssonar

Í upphafi ráðstefnunnar hélt Hjalti Kristgeirsson ræðu, þar sem hann sagði að virki herstöðvaandstæðinga, Alþýðubandalagið, sem verið hefði stoð og stytta SHA í vörn og sókn , væri nú brostið vegna ríkisstjórnarinnar. Skoraði Hjalti á fólk úr öllum flokkum að endurreisa þetta virki, á því byggðist farsæld baráttunnar. Vakti ræða Hjalta mikla athygli, en áskorun hans var tvímælalaust hafnað og herstöðvaandstæðingar ákváðu að treysta á eigin styrk.

### Ríkisstjórnin

Ráðstefnan lýsti hug sínum til ríkisstjórnarinnar, með því að samþykkja ályktun þar sem gagnrýnt var harðlega að yfirlýstir herstöðvaandstæðingar tækju þátt í stjórn sem hefði óbreytt ástand í hermálinu á stefnu sinni. Benti ályktunin á að með því að taka enga afstöðu til breytinga, væri í raun verið að samþykkja núverandi ástand, þ.e. veru Íslands í NATO og veru bandaríska hersins hér. Var ályktun þessi samþykkt samhljóða, en margir Alþýðubandalagsmenn sátu hjá, þar á meðal þingmenn og ráðherra.

### Þjóðaratkvæðagreiðsla

Enn betur höfnuðu herstöðvaandstæðingar forsjá Alþýðubandalagsins, þegar samþykkt var að krefjast þjóðaratkvæðagreiðslu um herinn og NATO. Úrtölumenn töldu að slík krafa væri ótímabær fyrr en SHA hefðu eflst enn meir skipulagslega. Á móti var bent á að ómögulegt væri að skipuleggja fjöldahreyfingu nema í kring um baráttu. Það er baráttan sem kallar á nauðsyn skipulagningar. Krafan um þjóðaratkvæðagreiðslu fékk aukinn hljómgrunn fyrir þá sök að fólk var almennt sammála um að þingræðishugmyndin hefði beðið endanlegt skipbrot og nýrra leiða þyrfti að leita. Framámenn Alþýðubandalagsins og EIKarar greiddu atkvæði á móti tillögunni.

Þessi ráðstefna markaði þau merku tímamót í baráttu herstöðvaandstæðinga, að ekki bera lengur að fela einum flokki forsjá mála, heldur treysta á fjöldann. Það er fólkið sjálft sem á að kjósa um brottför hersins og úrsögn Íslands úr NATO.



Frá landsráðstefnunni




# 36. þing INSÍ:

Framhald af forsíðu

INSÍ ætti að auka sjálfstæði sitt gagnvart ASÍ-forystunni og vera ekki taglhnýtingur aftan í ASÍ. Þessar tilllögur mættu þó andspyrnu Alþýðubandalagsmanna sem þarna voru á þinginu og skal engan undra þegar tekið er til þess að Alþýðubandalagið rekur stéttasamvinnupólitík innan verkalýðsfélaganna.

Stjórn INSÍ var gagnrýnd fyrir að fara ekki eftir ályktunum síðasta þings og gefa þær svo seint út að félögin höfðu engan möguleika að færa þær út í starf. Skýringar þær sem stjórnin gaf var sú að segulband það sem notað var á þinginu hefði bilað og ekki hefði verið hægt að draga það sem kom fram fyrr.

Að lokinni afgreiðslu ályktananna var tekið til við að kjósa í trúnaðarstöður innan sambandsins. Uppstillingarnefnd skilaði tillögum um 21. mann í sambandsstjórn sem fer með æðsta vald samtakanna milli þinga. Þegar tillagan var borin fram reis íhaldsliðið á þinginu upp á afturlappirnar og stakk upp á einum í viðbót úr sínum hópi Var hann fyrst í framboði til formanns á móti tillögu uppstillingarnefndar. Í þeirri atkvæðagreiðslu skítféll hann. Síðan var hann í framboði sem varaformaður og aftur féll kappinn. Að lokum var hann í framboði til sambandsstjórnar og enn féll hann., með miklum mun. Reyndi þá íhaldsliðið að telja mönnum trú um að kosningarnar hefðu verið ólöglegar, en eftir nokkrar umræður var þeim komið í skilning um að svo væri ekki.

Eins og lesendur Stéttabaráttunnar hafa komist að raun um við lestur greinarinnar þá er þessi grein almennt um það sem gerðist á þinginu. Mun Stéttabaráttan gera þinginu og ályktununum betri skil í næsta blaði.

## Úr fjölmiðlum

TÍBET -
"RJÁFUR HEIMSINS

Síðasta sunnudag var sýnd bresk fræðslumynd um Tíbet í sjónvarpinu. Myndin sem var mjög góð fjallaði um Tíbet fyrir og eftir frelsun. Tók hún fyrst fyrir ástandið eins og það var á tímum Dalæ Lama og einræðisstjórnar hans og fámennrar aðalsstéttar. Landið var þá lénsveldi og voru allir landsmenn nema aðallinn og æðstu prestar og munkar kúgaðir svo gersamlega af nefndum yfirstéttum að eingöngu efnaðri kaupmenn lifðu ekki við algeran skort.

Hins vegar var sýnt Tíbet nútímans og uppbygging sósíalismans eftir byltinguna (en í henni flýðu Dalæ Lama og helstu stuðningsmenn hans land). Í dag búa tíbetar við öryggi; þeir hafa næga vinnu og menntun og heilbrigðisþjónusta er mjög góð en hvort tveggja var af mjög skornum skammti í gamla Tíbet.

Það er ekki á hverjum degi sem íslenskir sjónvarpsáhorfendur fá að sjá myndir frá sósíalískum löndum sem sýna sannleikann um muninn á sósíalisma og kúgun auðvalds og nóta þess. Forráðamenn sjónvarpsins mættu halda áfram á þessari nýju braut.



**HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L**

Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar: sími 27810 og pósthólf 1357 121 R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð, Lindargötu 15, opið mánud. - föstud. kl. 16:00 - 18:30.

AKUREYRI
Jón Atli Játvarðsson
Skarðshlíð 30.

KEFLAVÍK
Einar Jónsson
Sólvallagötu 40c.

HAFNARFJÖRÐUR
Fjóla Rögnvaldsdóttir
Reykjavíkurvegi 24.

HELLISSANDUR
Sigfús Almarsson
Hellisbraut 10.

HORNAFJÖRÐUR
Margrét Einarsdóttir
Silfurbraut 2

SVÍÞJÓÐ
Kristján L. Guðlaugsson
Kämnärsvägen 11 N:220
222 46 LUND

# Lærdómar af 5. bindi Maó formanns

## „Barnasjúkdómar kommúnismans"

Í greininni "Umræður um breytinguna til samyrkju" segir Maó Tse-tung "Söguleg reynsla sýnir að flestir sem gert hafa villur í anda kreddufestu eða reynsluhyggju geta leiðrétt þær. En það krefst tveggja forsenda: annars vegar alvarlega gagnrýni og hins vegar umburðarlyndis. Það er



Kínversk alþýða hefur dregið marga lærdóma af ritum Maós...

ekki hægt að komast hjá því síðarnefnda, því án þess verða tengslin óeðlileg. Hver kemst hjá því að gera einhver mistök? Allir án undantekningar gera mistök, sumir gera meiriháttar mistök aðrir minniháttar."

(Vol. V. s. 223)

Hérlendis er fólk sem hafnar þessum orðum Maós. Það álítur að kreddufesta sé endurskoðunarstefna eða gagnbyltingarsinnuð afstaða. Það telur að kreddufestan, sem Lenín kallaði "barnasjúkdóma kommúnismans" séu mistök sem ekki er hægt að leiðrétta. Hefur sjálf reynslan ekki sýnt fram á að þessi skoðun á ekki við rök að styðjast? Í byrjun starfsferils síns gerðu Kommúnistasamtökin alvarlegar villur í anda kreddufestunnar, en þessi mistök hafa verið leiðrétt, ekki aðeins í orði heldur einnig í starfi. Það er líka einkennandi að þeir sem haldnir eru kreddufestu, viðurkenna hana ekki sem frávik frá kommúnismanum og leitast við að gera lítið úr afleiðingum hennar. Þeir sem álíta að "barnasjúkdómar kommúnismans" séu ekki lengur til, eru sjálfir alvarlega haldnir af þeim. Kommúníska hreyfingin á Íslandi þekkir bæði villur í anda kreddufestu og reynsluhyggju. Og henni ætti að vera það ljóst, að slíkar villur má leiðrétta í yfirgnæfandi tilfellum.

Við þekkjum öll aðferð harðrar gagnrýni og einskis umburðarlyndis. Hún hefur ævinlega verið notuð í samskiptum milli marxista-lenínista og venjulega með þeim árangri að hreyfingin klofnar og verkalýðsstéttin bíður skaða af. Að auki er þessi gagnrýni oft ekki alvarlegs eðlis, heldur úrtínslustefna, hártoganir og tilraunir til að leiða fólk í gildrur. Gagnrýni sem breiðir yfir megin-vandamálin en upphefur smáatriði í þeim tilgangi einum að sundra, er ekki marxísk gagnrýni, heldur smáborgaralegur útúrsnúningur. Alvarleg gagnrýni, marxísk gagnrýni miðar að því að sameina sem flesta um byltingarsinnaðan málstað verkalýðsstéttarinnar og markmið kommúnista. En jafnvel þótt gagnrýnin sé alvarleg, þótt hún sé marxísks eðlis, nægir það eitt sér ekki. Að auki verður að koma til umburðarlyndi. Viðurkenning á mannlegum brestum og því að villur séu í yfirgnæfandi tilfellum mistök, en ekki meðvituð gagnbyltingarstarfsemi.

Þegar menn álíta að villur í anda kreddufestunnar eða reynsluhyggju séu endurskoðunarstefna, sýnir það aðeins það eitt, að þeir skilja ekki muninn á tengslunum milli verkalýðsins og óvina hans annars vegar og tengslin meðal verkalýðsins og bandamanna hans hins vegar. Þeir skilja ekki að endurskoðunarstefnan er borgaraleg og gagnbyltingarsinnuð og ósættanlegur óvinur kommúnismans. Og með því að telja alla óvini, sem gert hafa jafnvel minnstu villur í anda kreddufestu og reynsluhyggju, meta þeir afstöðu baráttunnar vitlaust, ýta fólki frá byltingunni og gera borgarastétt-

### 3.grein

inni gagn.

Sá klofningur sem átt hefur sér stað innan Kommúnistaflokksins á rætur sínar að rekja til þessarar röngu afstöðu. Jafnvel við hin minnstu mistök, gripu 7-menningarnir og fylgismenn þeirra tækifærið og settu fram gagnrýni í því skyni að sundra. Þeir áttu smáborgaralega og óvægna gagnrýni, en þá skorti umburðarlyndi og sjálfsgagnrýni. Þeir mátu tengslin milli vina og óvina ranglega og afleiðingin varð sundrun í þágu borgarastéttarinnar. Þeir skirrðust ekki einu sinni við að bera félaga sína röngum eða upplognum sökum, fara á bak við þá og beita trotskískum starfsstíl í því skyni að ryðja úr vegi forystu flokksins. Þessir menn hafa gert villur í anda kreddufestunnar. Geta þeir leiðrétt þær? Já, í yfirgnæfandi tilfellum geta þeir það. "Barnasjúkdómar kommúnismans" eru ekki dauður bókstafur, heldur illkynja meinsemd sem þrífst í kommúnísku hreyfingunni. Ef þessi meinsemd verður ekki upprætt, mun baráttan gegn endurskoðunarstefnunni verða sundruð og veikburða. Kommúnistar verða að heyja baráttu á tvennum vígstöðvum, gegn hægri hentistefnu og "vinstri" hentistefnu. Ef baráttan er aðeins háð á annarri vígstöðinni, leiðir það óhjákvæmilega til ósigurs á hinni - og það baráttulaust.



...og íslensk alþýða mun einnig geta lært af reynslu kínverja.

# Fangelsi í Kína

*Þriðji hluti*

<u>Fanginn eftir fangavistina?</u>

Hvað bíður fanga sem afplánað hefur dóm? Leiðist hann aftur út á sömu braut? Í svari þessara spurninga er fólginn árangur endurhæfingar innar og svarið er raunar mælikvarðinn á fangelsið sem "betrunarhús".

Tímanlega áður en fangavistinni lýkur fara starfsmenn fangelsisins á þá vinnustaði þar sem fanginn vann áður. Honum er fengin vinna þar eða annarsstaðar við sitt hæfi. Fólkið þar er undirbúið og hvatt til að taka honum vel. Þar öðlast maðurinn sömu réttindi og skyldur og aðrir. Hann er ekki undir neinu smásmugulegu eftirliti en er hinsvegar leiðréttur og honum hjálpað eins og öðrum.

Það er afar sjaldgæft að fangi leiðist aftur út á braut glæpa enda er allt gert til að koma í veg fyrir það.

Þannig er fanginn endurhæfður gegnum vinnu í fangelsinu. Hann fær menntun í fangelsinu og að endurhæfingunni lokinni er séð svo um að hann fari inn í eðlilegt umhverfi og taki þar þátt í félagslegu starfi.

Þetta leiðir hugann að fangelsismálum á Íslandi. Þar stendur fanginn verr að vígi eftir fangavistina en fyrir hana. Hann hefur ekki samsamast umhverfinu og orsök afbrotsins er enn fyrir hendi. Honum hefur einungis verið refsað. Og refsingin heldur áfram: Hann fær ekki vinnu.

Á Íslandi er markmiðið í raun og veru refsing en í Kína er það endurhæfing. Þetta er mikilvægasti lærdómurinn af því að skoða fangelsi í Kína.

<u>Algengustu dómar.</u>

Engan má dæma til fangavistar í Kína fyrr en eftir 18 ára aldur. Á Íslandi er það 16 ár.

Flestir fanganna er miðaldra, yngri og eldri eru í



Eldri kona segir frá þeim hörmungum og kúgun sem tíðkaðist í Kína fyrir frelsun.

minnihluta. Elstu afbrotamenn eru ekki látnir afplána dóma sína í fangelsum.

Dæmd fangavist er að meðaltali 3-7 ár. Lengri dómar þekkjast, 10, 15 og 20 ár, en þeir eru fáir. Lífstíðardómar eru mjög fáir. Í þessu xxx sambandi má geta þess hér að dómurinn getur breyst eftir hegðun fangans, þ.e. styst við góða hegðun og lengst við afbrot innan fangelsisins.

Líflátsdómar eru fátíðir. Maó orðaði það svo að það ætti að lækna sjúkdóminn til að bjarga sjúklingnum. Það er stefnt að því að hafa aftökur eins fáar og mögulegt er. Sé maður dæmdur til lífláts er aftökunni frestað í 2 ár. Þetta tveggja ára tímabil er notað af kostgæfni við að endurhæfa fangann. Ef það ber góðan árangur er dóminum breytt. Einnig fær fanginn 10 daga frest til að leita náðunar eftir að aftakan hefur verið ákveðin.

Þetta hefur gert það að verkum að aftökur eru afar fátíðar.

<u>Tegundir afbrota.</u>

Tegundum afbrota má skipta í þrjá hópa.

Fyrsta hópinn getum við kallað gagnbyltingarsinna. Þetta mega líka kallast pólitískir afbrotamenn þó með fyrirvara um merkingu. Þessir afbrotamenn hafa ráðist með ofbeldi gegn alræði öreiganna. Það er enginn fangelsaður í Kína fyrir skoðanir sínar. Afbrotamenn af þessari tegund eru nú færri en áður.

Þeir eru helstir þrennskonar: Í fyrsta lagi þeir sem kallast mega sögulegir afbrotamenn. Þetta eru þeir sem framið hafa afbrot sín fyrir byltingu, t.d. ýmisskonar harðstjórar Kúómíntangflokksins.

Í öðru lagi nýir gagnbyltingarsinnar. Þar á meðal má nefna skemmdarverkamenn sem skemmt hafa framleiðslu af ásettu ráði o.s.frv. svo og menn sem hafa tengst erlendum ríkjum gegn Kína.

Í þriðja lagi njósnarar og agentar frá öðrum löndum, t.d. vestrænum heimsvaldaríkjum og Taiwan.

Ofantaldar tegundir afbrota eru í raun hliðstæðar því sem kallast landráð á Íslandi.

Sumir eiga vegna fordóma erfitt með trúa því að í Kína séu menn ekki fangelsaðir fyrir skoðanir sínar. Í því sambandi ber að líta til þess að á hverjum vinnustað og allsstaðar þar sem fólk starfar fer fram barátta mismunandi skoðana. Þessar umræður eru ýmist skipulagðar eða ekki. Þær snúast ýmist um fagleg mál eða stjórnmál yfirleitt. Fólk er hvatt til að taka þátt í þeim og koma skoðunum sínum á framfæri. Án slíkra umræðna og án skoðanafrelsis mundi þjóðfélagið óhjákvæmilega staðna. Þetta er fáum betur ljóst en kínverjum. Það er ekki aðeins að menn megi hafa sína skoðanir heldur er mönnum tryggður rétturinn til að koma þeim á framfæri. Nægir í því sambandi að benda á veggblöðin í Kína. Á vesturlöndum er hinsvegar skoðanafrelsi og prentfrelsi háð vilja eigenda og umráðamanna ýmisskonar fjölmiðla og prenttækja.

Annar hópur afbrotamanna í Kína eru þeir sem kalla má "venjulega" afbrotamenn, þ.e. þjófar, morðingjar, braskarar og fleiri. Þetta er fjölmennasti hópur afbrotamanna í Kína.

Þriðji hópurinn eru menn sem vegna meðvitaðrar óaðgæslu hafa gert eitthvað af sér. Til dæmis um þetta má nefna íkveikju vegna óvarkárni eða óaðgæslu eða bílstjóra sem veldur bana vegna ógætni. Þessi hópur er ekki mjög stór. Mjög ströng sönnunarskylda hvílir á herðum dómstólsins í slíkum málum. Það verður að sannast ótvírætt að um sé að ræða meðvitaða ógætni.

Hér má bæta við að á tímum fjórmenninganna fjölgaði glæpum enda var stjórnleysi og agaleysi blátt áfram á stefnuskrá þeirra.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
40. tbl. þriðjudaginn 24. Okt. 1978

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.



## Þing Rauðsokkahreyfingarinnar

Helgina 14.-15. október hélt Rauðsokkahreyfingin þing í Ölfusborgum. Yfirskrift og viðfangsefni þingsins var "Rauðsokkahreyfingin sem baráttutæki."

Helstu umræðuefnin voru: stefnuskrármál, skipulag, baráttuaðferðir og verkefnin framundan.

Í umræðunni um stefnuskrármálin kom það greinilega fram að félagarnir voru ekki nógu vel undir umræðuna búnir, enda höfðu engar breytingatillögur við hana borist. Því varð umræðan ekki mjög frjó, en umræðuhópur starfaði um málið. Niðurstöður hans voru þær að ræða þyrfti stefnuskrána betur innan hreyfingarinnar og vinna út greinargerð með henni þar sem málin yrðu tekin nánar upp. Í almennum umræðum um þennan lið kom fram tillaga um starf að þessu máli. Er þar gert ráð fyrir að starfshópur fjalli um þetta mál fram að ársfjórðungsfundi í desember, þar sem rætt verði um málið og endurbætur og tillögur komi fram. Síðan heldur hópurinn áfram störfum og starfar fram að ársfjórðungsfundi í mars þar sem ákvörðun verður tekin um stefnuskrána. Lögð verði áhersla á að allt efni verði lagt fram með góðum fyrirvara þannig að félagarnir geti undirbúið sig sem best.

Breyting var gerð á skipulagi hreyfingarinnar þannig að allir hópar starfi samhæft að einu verkefni. Hreyfingin velur sér höfuðverkefni ársfjórðungslega og síðan er skipt niður í hópa eftir ákveðnum þáttum verkefnisins Frjálst er að stofna hópa um önnur málefni sem upp kunna að koma. Í lok hvers ársfjórðungs skal málefnið kynnt opinberlega eins og kostur er. Þessi tilhögun



býður upp á reglulegri útgáfu á Forvitin rauð, sem þá verður eins konar temablað. Kraftar hreyfingarinnar nýtast betur þegar allir leggjast á eitt, sbr. starfið í kringum 1. des. og 8. mars í fyrra, en þá var starfað með þessu sniði.

Um baráttuaðferðir var rætt vítt og breytt. Voru flestir á einu máli um að rétt væri að nota sér sem flesta baráttuvettvanga bæði fundi og fjölmiðla. Einnig var rætt um að reyna að brydda upp á sem flestum nýjungum og að láta aðgerðir hreyfingarinnar ekki staðna í einhverju ákveðnu formi. Kom fram að möguleikarnir eru nær óendanlegir hvað til dæmis menningarefni varðar. Gagnrýnt var að hreyfingin hefur lítið haft sig í frammi á opinberum vettvangi undanfarið og var fullur hugur á að bæta úr því.

Á þinginu var einnig rætt um starfið framundan og var ákveðið að hreyfingin stæði fyrir Rauðsokkahátíð í nóvembermánuði. Hátíðin hefur hlotið nafnið "Frá morgni til kvölds." Þarna verður ýmislegt til skemmtunar og fróðleiks t.d. er í ráði að vera með bókmenntakynningu, leikþátt, dagskrá um hjónabandið, tónlist o. fl. Í lokin verður svo klykkt út með balli.

Fram að áramótum verða útgáfumálin tekin til rækilegrar umfjöllunar. Allt of lítið er til af efni um kvennabaráttuna á íslensku og er von manna að úr þessu eigi eftir að rætast á næstunni. Ráðgert er að "Kvinde kend din krop" komi út bráðlega en það er handbók sem fjallar um kvensjúkdóma, fæðingar, vandamál kvenna og ýmislegt fleira. Einnig er von á nýliðabæklingi.

Ýmislegt fleira bar á góma, en það verður að bíða betri tíma. Þó verður ekki skilist við efnið án þess að geta um skipulag þingsins. Eins og áður var getið var þingið haldið í Ölfusborgum og var aðstaðan öll til fyrirmyndar. Matseld og barnagæslu var bróður(systur)-lega skipt milli þinggesta, sem voru u.þ.b. 40 að tölu. Tókst þetta með ágætum og var skipulagningin á þessum hlutum mjög góð.



Davíð Sch. viðurkennir að gróði hans er sprottinn af vinnu verkalýðsins.

## Verðlagsstríðið: Mikið vill meira

Ríkisstjórnin hefur ekki farið að lögum. Verðlagsstjóri getur ekki gefið út neina verðskrá. Verðlagsnefnd var búin að veita hækkanirnar. Þessvegna lokum við bara verksmiðjunum.

Eitthvað á þessa leið er söngur nokkurra atvinnurekenda með Davíð Sch. Thorsteinsson í fararbroddi. Hann lætur meira að segja hafa eftir sér í blöðum að ódýrara sé að hafa verkafólk á kaupi en að selja vöruna á leyfilegu verði.

Ástæða þessa söngs atvinnurekenda er að þeir fá ekki að selja vöruna á því verði sem þeim sýnist. Þetta eru sömu mennirnir og bregða verkalýðnum um ábyrgðarleysi þegar hann fer í verkfall. Það er sitthvað Jón eða séra Jón. Í raun og veru eru þessir atvinnurekendur að viðurkenna leið verkfalla sem baráttuaðferð.

Í og með lætur Davíð Scv. í það skína að það sé af einskærri góðmennsku að hann segi ekki verkafólkinu upp meðan á þessu stendur. Auðvitað er það ekki svo heldur veit hann það að gróði hans verður til af vinnu verkalýðsins. Þessvegna er honum óhætt að láta vélarnar ganga áfram meðan hann neyðir ríkisstjórnina til að verða við kröfum hans. Síðan getur hann selt vörurnar á háa verðinu.

Þetta hefur Davíð Sch. í raun og veru viðukennt. En hann vill meira. Hann vill fá að selja vöruna á því verði sem honum þóknast til að ná hámarksgróða.

## Dans- og söngvahópur frá Tíbet

Dagana 24 og 25. október n.k. mun sýningarhópur listafólks frá Tíbet skemmta hér á landi með söng og dans í Þjóðleikhúsinu. Þetta er síðasti viðkomustaður hópsins í ferðalagi hans um Norðurlöndin. Kínversk-íslenska menningarfélagið, KÍM stendur fyrir komu þessa hóps og er tilgangur hans til Norðurlanda að efla gagnkvæman skilning og vináttu þjóðanna í Kína og Norðurlandanna.

Tíbet er þekkt fyrir ríka söng-og danslist, enda er hún óaðskiljanlegur þáttur í lífi og starfi alþýðunnar í Tíbet.

Eftir að blóðugri einræðisstjórn Dalæ Lama var velt úr valdasessi af tíbetskri alþýðu og uppbygging lýðræðis ríkis hafin árið 1959, þá var öllum alþýðudönsum og -söngvum safnað saman og aðhæfðir sýningum á sviðum innanhúss. Í tengslum við söfnunina mynduðust dans-og söngvhópar í Tíbet og á öðrum þjóðernisminnihlutasvæðum og ferðuðust þeir á milli landbúnaðar- og hjarðsvæða og skemmtu frelsuðu alþýðufólki við miklar vinsældir. Fólk úr röðum fyrrverandi tíbetskra þræla tók þátt í starfi þessara hópa í Tíbet og var það styrkt ásamt öðrum þjóðernisminnihlutum til frekara söngnáms í Kína, þar sem lögð var áhersla á að þjóðerniseinkenni fengju að njóta sín á allan hátt. Við þetta komu fram á sjónarsviðið miklir listamenn sem njóta mikilla vinsælda og virðingar í Kína. Sem dæmi má nefna sópransöngkonu tíbetska listahópsins, Dsædan Dsjoma. Hun er af lénsþrælum komin og fékk sína fyrstu söngkennslu sem smalastúlka, þá 13 ára gömul. Hún nýtur mikilla vinsælda um allt Kína sem frábær sópransöngkona og fyrir mjög góða túlkun á tíbetskum söngvum. Einnig mætti nefna Pasang Tserín sem er dansari í hópnum. Hann var húsþræll 9 ára gamall hjá aðalsmannafjölskyldu en strauk þaðan vegna barsmiða og misþyrminga. Ekki biðu hans betri örlög þegar hann stritaði á heimili lénsherra nokkurs. Hann hrökklaðist hvað eftir annað úr vist, vegna illrar meðferðar lénsaðalsins.

Seinna sendi Alþýðuríkisstjórnin hann í Aðalstofnun þjóðernisminnihluta í Peking til náms við listadeild hennar. Hann lauk námi þar 1962 og hefur náð mikilli tækni tíbetskra alþýðudansa.

Eins og fram kemur í þessari kynningu þá er koma þessa listahóps einstakur viðburður hér á landi. Nú gefst okkur tækifæri til að kynnast hluta af menningu alþýðunnar frá "Rjáfri heimsins" og hvetur Stéttabaráttan lesendur sýna til að sjá sýninguna og fá sem flesta með sér. Fyrir utan að sýna í Þjóðleikhúsinu þá mun tíbetski listahópurinn einnig sýna á Akranesi og Selfossi.



Atriði úr dansinum "Kvöld í haustönnum"

